Tvisvar í mánuði

# VERKALÝÐS-BLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (M-L) 3.ÁRGANGUR 12.TBL. 19. OKTÓBER - 2. NÓVEMBER 1977 100 kr.

## 33% SÖGÐU NEI!

Rétt áður en VERKALÝÐSBLAÐIÐ fór í prentun sunnudagskvöldið 16. október bárust þær fregnir frá Starfsmannafélagi Reykjavíkurborgar, að talningu atkvæða í allsherjaratkvæðagreiðslu í félaginu um svikasamninga forystu félagsins við borgaryfirvöld væri lokið. Úrslit urðu þau, að um 1500 manns tóku þátt í atkvæðagreiðslunni eða 75% félagsmanna. 66% greiddu svikasamningunum atkvæði sitt, en 33%, eða um 500 manns greiddu atkvæði gegn þeim. Þrátt fyrir samþykkt samninganna hjá SR, þá liggur ljóst fyrir að baráttustefnu innan félagsins vex fiskur um hrygg! Að þriðjungur félagsmanna, sem á annað borð greiddu atkvæði, skuli hunsa svikasamningana er vissulega eftirtektarverður og glæsilegur árangur - sérstaklega þegar þess er gætt hversu gífurleg pressa afturhaldsins í SR-forystunni, borgaryfirvalda, fjölmiðla o.fl. var á samþykkt samninganna. VERKALÝÐSBLAÐIÐ óskar baráttusinnum í SR til hamingju með árangurinn og hvetur þá til þess að láta þennan árangur verða hvatningu til nýrra og meiri sigra. Burt með íhaldsstjórnina í SR!

## Gerum 1.des. að baráttudegi

1. desember er minnst á Íslandi sem mikilvægasta dagsins í sjálfstæðisbaráttu ísl. þjóðarinnar. Þann dag árið 1918 varð Ísland fullvalda ríki.

En það er langt frá því að baráttunni fyrir sjálfræði landsins sé lokið. Ísland er aðili að hernaðarbandalagi vestrænna auðvaldsríkja, NATO; auðstéttin selur Efnahagsbandalagi Evrópu fiskveiðiréttindi í fiskveiðilögsögunni fyrir tollaívilnanir, og hún opnar allar gáttir fyrir innstreymi erlends auðmagns. Þess vegna verður að berjast gegn þessari þróun, berjast gegn því að auðstéttin selji sjálfræði landsins þegar gróðahagsmunir hennar krefjast þess.

Það eru einnig fleiri atriði sem koma til í baráttunni fyrir sjálfræði Íslands. Risaveldin tvö, Bandaríkin og Sovétríkin, undirbúa nú nýja uppskiptastyrjöld og ógna þar með öryggi og sjálfræði Íslands og fleiri ríkja. Því verður að koma til öflug barátta gegn báðum risaveldunum.

Undanfarin ár hafa svokallaðir "vinstri" stúdentar helgað 1. des. ýmsum þjóðfélagsmálum, m.a. andheimsvaldabaráttu. Fyrir utan margar villur og jafnvel ranga pólitík, hafa þeir einokað þennan dag. Íslensk alþýða hefur þar hvergi komið nærri. Þessu er mjög brýnt að breyta, þannig að 1. des. verði baráttudagur íslenskrar alþýðu, vegna þess að hún ein mun verja sjálfstæði landsins.

Nú er í undirbúningi að stofna baráttunefnd 1. des., sem hafa mun þetta að markmiði, þ.e.a.s. að gera daginn að baráttudegi íslenskrar alþýðu. Ætlunin er að fara út í aðgerðir 1. desember undir kjörorðunum:

+ Verjum sjálfsákvörðunarrétt Íslands!
+ Gegn erlendri stóriðju!
+ Ísland úr NATO - herinn burt!
+ Gegn báðum risaveldunum - Sovétríkjunum og Bandaríkjunum!

Baráttunefndin verður öllum opin sem styðja vilja þessi kjörorð. Nánar mun verða sagt frá henni í næsta tölublaði Verkalýðsblaðsins.

GERUM 1. DESEMBER AÐ BARÁTTUDEGI ÍSLENSKRAR ALÞÝÐU GEGN ALLRI HEIMSVALDASTEFNU OG FYRIR VERNDUN SJÁLFRÆÐIS LANDSINS!

## BSRB dragi sig úr kjaradeilunefnd !

Svokölluð "kjaradeilunefnd" hefur gert sig mjög gildandi í verkfalli opinberra starfsmanna, en nefnd þessa notar ríkisvaldið sem einskonar svipu á verkfallsmenn og hefur hún víðtæk völd lögum samkvæmt.

"Kjaradeilunefnd" er skólabókardæmi um valdastofnun sem borgarastéttin og ríkisvald hennar setur á laggirnar til höfuðs verkafólki og annarri vinnandi alþýðu sem á í réttmætri réttinda- og kjarabaráttu. Þar koma saman "fulltrúar þeirra sem eiga hagsmuna að gæta í viðkomandi máli", eins

Framhald bls. 3

## Mjólkursamsalan á vígaslóð

Vel þekkt er aðferð auðvaldsins við að vinna gegn eigin gróðaskerðingu þegar nýjar vélar eða aukinn rekstrarkostnaður hallar á fyrirtækin. Hún felst í því að segja upp vinnufólki, skerða aðbúnað þess og kreista meiri framleiðni út úr fólkinu. Slíkt heitir HAGRÆÐING á máli ASÍ-foringjanna og "vinnuveitenda".

Flestir muna eftir uppsögnum hátt á annað hundrað afgreiðslumanna í mjólkurbúðum Mjólkursamsölunnar - sem þykist vera "samvinnufyrirtæki". Samsölunni heppnaðist aðförin að verkamönnunum þrátt fyrir harða baráttu þeirra og stuðningsmanna þeirra. Nokkur árangur náðist þó, en atvinnuástand meðal félaga í Fél-

Framhald bls. 3

## GEGN UNDANSLÆTTI BSRB FORYSTUNNAR Á KAUPKRÖFUNNI

# Fullan verkfallsrétt á samningstímabilinu!



ÞÚSUNDIR BSRB-FÉLAGA SÓTTU ÚTIFUND Á VEGUM BSRB, SEM HALDINN VAR Á LÆKJARTORGI Í REYKJAVÍK LAUGARDAGINN 15. OKTÓBER. ÞAR VAR GERÐ GREIN FYRIR STÖÐUNNI Í KJARABARÁTTUNNI OG LÖGÐ ÁHERSLA Á AÐ AÐEINS NÆÐIST ÁRANGUR MEÐ ÓROFA SAMSTÖÐU. FORYSTA STARFSMANNAFÉLAGS REYKJAVÍKUR FÉKK ÞAR KVEÐJUR KALDAR!

MYND: VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Þegar þetta er skrifað, 16. október, hefur ríkisvaldið enn ekki sýnt lit á því að halda samningafund með BSRB. Samt er ljóst að forysta BSRB hefur slegið meira af kjarakröfum sínum en góðu hófi gegnir, eða a.m.k. 30 þús. á móti 4 þús. kr. hækkun ríkisins á tilboði sínu! Ástæða þess að ekki er talað við BSRB er fyrst og fremst sú, að beðið er úrslita í atkvæðagreiðslu Starfsmannafélags Reykjavíkur (SR). Samþykkt svikasamninga SR og borgaryfirvalda myndi óneitanlega veikja stöðu BSRB sem heildar í verkfallinu og samningunum.

Lengi hefur verið vitað að SR væri veikasti hlekkurinn í verkfallskeðju BSRB, einkum vegna þess að í forystusveit SR sitja einstaklingar sem auðvaldið hefur keypt algerlega upp og sem hafa því komið fram í kjaradeilunni sem hreinir og beinir erindrekar borgaryfirvalda og ríkisvaldsins í röðum borgarstarfsmanna. Þetta hefur verið óspart notað af afturhaldinu og forystu SR og svikasamningum hennar stanslaust hampað í borgaralegu blöðunum, sérstaklega þó í Mogganum.

Jafnframt hefur Mogginn notað sínar stærstu kanónur til að rægja BSRB og verkfallið. Höfðað er til tilfinninga lesenda

Framhald bls. 3

## „Okkur vantar verkfallssjóð"

Í fyrsta sinn hefur baráttustefna skotið rótum í einu helsta vígi íhaldsins meðal verkafólks - Starfsmannafélagi Reykjavíkur. Þetta félag hefur verið notað af borgarstjórnaríhaldinu til að reyna að sundra verkfalli BSRB. Blaðið hitti að máli borgarstarfsmann, sem ekki vill láta nafns getið, og bað hann gera í stuttu máli grein fyrir ástandinu í félagi hans.

Vbl: Stjórn Starfsmannafélags Reykjavíkur (SR) fékk nú í fyrsta sinn andstöðu gegn sér í félaginu. Er þetta einhver alvara eða mun íhaldið halda félaginu áfram sem þjónustuaðila fyrir borgaryfirvöld?

Starfsmaður: Í samningunum núna gerðu margir félagsmenn sér grein fyrir að stjórnin og samninganefndin eru ekki fulltrúar félagsmanna, heldur borgaryfirvalda og ríkisvaldsins. Þetta kom m.a. fram þegar samningsdrögin voru felld á Hótel Sögu, þar sem virkasti hluti félagsmanna var samankominn. Annars verður tíminn og baráttan að skera úr um það hversu alvaran er mikil hjá andstöðunni í félaginu til áframhaldandi baráttu gegn íhaldsstjórninni.

Vbl: Það hefur ekkert verið til sparað að kynna þá nánasarlegu samninga sem SR-forystan gerði við borg og ríki. Bendir þetta til þess að stjórnin sé erindreki þessara aðila en ekki fulltrúi félagsmanna?

Starfsmaður: Já, á öllum þessum svokölluðu kynningarfundum töluðu þeir sem fulltrúar borgar og ríkis og sögðu að við gætum bara alls ekki fengið meira. Þeir beittu meira að segja þeim brögðum að dreifa fundunum um allan bæ til að hindra að andstaðan kæmi fram samhent á einum fundi, en auðvitað hefði verið réttast og eðlilegast að kynna samningsdrögin á einum fundi.

Framhald bls 3

VERKALÝÐS-BLAÐIÐ
ALLRA LANDA SAMEINIST!

# INNSIGLAÐUR KLOFNINGUR

Liggur ekki í augum uppi, að einn helsti liður í smíði baráttuflokks verkalýðs og annarrar alþýðu - Kommúnistaflokks - er sameining allra kommúnista í ein samtök?

Kommúmistar eru ekki allir þeir, sem segjast vera það. Ef svo væri gæti kommúnismi og marx-lenínismi ekki verið neitt annað en teygjanleg skólaspeki. Afturhald á borð við marga "sósíalista" í Alþýðuflokknum og Alþýðubandalaginu, t.d. ASÍ-forystan, aðskilur sig augljóslega frá baráttusinnum meðal alþýðufjöldans.

Íslenskir kommúnistar eru ekki margir í dag. Það er skiljanlegt ef minnt er á yfir 40 ára einstefnuþróun verkalýðshreyfingarinnar afturábak undir forystu þeirra sem brotið hafa grundvallaratriði þjóðfélagsfræða verkalýðsins - marx-lenínismann.

Kommúnistana er að finna innan EIK(m-l), að nokkru innan svo nefnds "Kommúnistaflokks" ("KFÍ/ML") og einstaklinga utan samtakanna.

Kommúnistar eru allir þeir sem vilja berjast stéttabaráttu, vilja stofna marx-lenínískan flokk og taka hag fjöldans fram yfir eigin hag.

EIK(m-l) voru stofnuð 1975 til að sameina þessa baráttusinna, rótfesta marx-lenínismann meðal verkalýðs og stofna nýjan verkalýðsflokk til að veita forystu efnahagsbaráttu og pólitískri baráttu vinnandi fólks.

Baráttan fyrir markmiðunum hefur fært verulegan árangur. Einn gildur þáttur hennar hefur verið skoðanabarátta við þau samtök, sem kennt hafa sig við marx-lenínismann. Ekki vegna sérhagsmuna EIK(m-l), heldur vegna brýnnar þarfar á að sameina þá sem unnt er að sameina um marx-lenínismann, en ekki falsútgáfur af honum. Margir hafa ekki skilið þetta og harmað klofninginn, jafnvel án þess að vega stefnurnar sem takast á. En menn bæta ekki 40 ára hnignunarsögu baráttulaust á nokkrum árum.

Skoðanabarátta EIK(m-l) við Kommúnistasamtökin (KSML) og síðar "KFÍ/ML" er jafngömul samtökunum.

EIK(m-l) höfnuðu tilboði KSML 1975 um að sameinast um flokksstofnun á fastákveðnum degi í apríl 1976. EIK(m-l) sögðu sig reiðubúin til slíkrar sameiningar að uppfylltum fjórum skilyrðum:

1) Grundvallareiningu um marx-lenínismann - kenningar Maó Tsetungs.
2) Grundvallareiningu um skipulag og starfshætti flokksins.
3) Grundvallareiningu um mikilvæg baráttumál líðandi stundar.
4) Sjálfsmat og uppgjör KSML við gamla skemmdarverkastefnu sína frá 1972 - 1975.

Þessu hafnaði forysta KSML í litlu samráði við félaga sína og breytti nafni KSML í flokksnafn án nokkurra verulegra breytinga á eiginleikum samtakanna. Vegferð "KFÍ/ML" eftir stofnun hefur verið undan brekku að grafarbakka. Er það eðlileg afleiðing hentistefnu og rangra stefnumiða samtakanna sem heildar. EIK(m-l) létu ekki sitja við orðin tóm um sameiningu og lögðu skjal fyrir "KFÍ/ML" þar sem pólitísk undirstaða sameiningar var lögð fram. Þetta gerðist í september 1976 og nú rúmu ári síðar er skjalinu ósvarað.

EIK(m-l) sömdu greinaflokk í fræðilegt tímarit sitt, Rauðliðann, um sögu sameiningar, stefnuskrá "KFÍ/ML" og skort á heiðarlegum stefnubreytingum. Hefur engu verið svarað af hálfu "KFÍ/ML". EIK(m-l) sendu félögum "KFÍ/ML" þrjú opin bréf um sameiningarmálin. Öllum er ósvarað.

En forysta "KFÍ/ML" veit upp á sig skömmina og pólitískan dauðadóm. Hún læðist eins og ljósfælin margfætla milli gátta og rægir EIK(m-l) við félaga samtaka sinna, við samtök og einstaklinga.

Í stað skoðanabaráttu er treyst á tortryggni. Í stað þess að svara gagnrýni er fitjað uppá lygum. Í stað þess að viðurkenna mistök eru mistök borin á aðra. Í stað opinnar baráttu kemur baktjaldamakkið og þögn.

Þrátt fyrir allt þetta, þrátt fyrir að margir liðsmenn "KFÍ/ML" hafi gengið í raðir EIK(m-l), (fleiri en "sjömenningarnir" sem forysta "KFÍ/ML" reynir að halda sig við) halda EIK(m-l) því fram að enn sé þar fólk sem vill í raun ganga rétta leið.

Skoðanabarátta við "KFÍ/ML" og barátta fyrir sameiningu ísl. marx-lenínista er því enn háð af hálfu EIK(m-l). EIK(m-l) merkja hins vegar samtökin "KFÍ/ML" sem ónothæfa og óstarfhæfa klíku. Skilyrði fyrir viðræðum við samtökin er: SVARIÐ SAMEININGARGRUNDVELLI EIK(m-l) LIÐ FYRIR LIÐ.

Við baráttusinna segjum við: Kynnið ykkur sögu og stefnu EIK(m-l) og "KFÍ/ML". Metið muninn og látið ekki blekkjast af tilraunum forystu "KFÍ/ML" til að rægja og gera lítið úr EIK(m-l).

## Samtíningur

### Seinheppinn Geirfugl

Geir Hallgrímsson, forsætisráðherra, er furðu seinheppinn með skoðanir sínar á alþjóðamálum. Hér áður fyrr þegar bandaríska heimsvaldastefnan var í óða önn að efla áhrif sín um allan heim í kjölfar II. heimsstyrjaldarinnar, þá gengu Íslendingar í NATO vegna "útþenslustefnu Sovétríkjanna" (að sögn Geirs sjálfs).

Í dag hefur Geir tekið undir með Brésnef þegar hann syngur um "slökun spennu" (detente) og skrifar undir hvern samninginn á fætur öðrum um afvopnun.

Sem sagt: Þegar Sovétríkin voru í sárum eftir heimsstyrjöldina og áttu t.d. ekki neinn herskipaflota til úthafssiglinga, þá var Geir allur á varðbergi gegn þeim. En í dag þegar Sovétríkin eru orðin heimsvaldaríki með klærnar (úthafsskip o.fl.) um allan hnöttinn - þá er Geir reiðubúinn að ræða við þá í einlægni um slökun og betri samskipti!

### Ævarandi hlutleysi?!

Margt spaugilegt má berja augum í Stéttabaráttunni, málgagni "Kommúnistaflokks Íslands m-l". En alvaran leynist oft undir skringilegu yfirborði. Í 30. tbl. 1977 birtist grein sem gengur lengra en flestar greinar blaðsins til að sýna hversu sterk tök endurskoðunarstefnan hefur í flokknum. Greinin heitir "Ævarandi hlutleysi Íslands" og er birt óundirrituð og athugasemdarlaust (og ekkert hefur um hana verið fjallað síðan í Stb.). Greinin verður því að teljast eign "Flokksins".

Greinin boðar í stuttu máli þá stefnu að baráttumál herstöðvaandstæðinga hér og nú skuli vera ævarandi hlutleysi Íslands. Þar með hefur "KFÍ/ML" brotist freklega inn í stefnubúr Alþýðubandalagsins. Það er nefnilega þaðan sem Stéttabaráttan fær eftirfarandi stefnu: "Við verðum að stefna að ævarandi hlutleysi Íslands, þannig að hernaðarbandalög heimsvaldasinna haldi sig utan landhelginnar með vígatól sín". Allt í lagi þótt landið lýsi ekki yfir stríði á hendur Sovétríkjunum og Bandaríkjunum, en hvaðan fær "KFÍ/ML" þetta ofurtraust á heimsvaldasinnum? Það verður ekki annað séð en að þeir telji að yfirlýsingar séu sterkasta vopnið sem íslensk alþýða hefur tök á!!

Kommúnistar hafa ætíð bent á að alþýða hvers lands verður að treysta á eiginn mátt og meginn - og það verður ekki gert nema með því að alþýðan geti varið sig og sitt land í krafti eigin vopna (Stéttabaráttan segir m.a. að Íslendingar séu ófærir um að bera vopn). Það á aldrei að segja aldrei og ævarandi er langt orð!

### Samstaða eða hentistefna

Flokkurinn í kringum Stéttabaráttuna setti fram 160 þús. kr. laun á mánuði sem lágmarkskröfu í síðustu Alþýðusambandssamningum. Þetta átti að vera "byltingarsinnuð" kaupkrafa, sem færa skyldi verkalýðnum lífvænleg laun (!) í auðvaldsþjóðfélaginu.

Allir þeir sem settu fram kröfur sem lægri voru, en að sama skapi líklegri til að efla fjöldabaráttu, voru kallaðir "aftaníossar ASÍ-forystunnar". Þar á meðal voru EIK(m-l).

Það hefur vakið athygli að Stéttabaráttan hefur ekki minnst orði á þessa "byltingarkröfu" nú í BSRB-samningunum. Í stað þess er óbeint fallist á kröfur BSRB-forystunnar og farið fjálgum orðum um verkfallsrétt BSRB, sem í raun ekki einu sinni heimilar verkföll á samningstíma!

Nú spyrjum við "Flokkinn": Er þetta samstaða með BSRB-forystunni eða bara tækifærisstefna?

## Landsráðstefna SHA Lítil framför

Landsráðstefna Samtaka herstöðvaandstæðinga var haldin í Grindavík dagana 15.-16. október. Fyrir ráðstefnunni lágu þau verkefni að ræða stefnu og starf samtakanna. Ráðstefnan var heldur fámenn - um 200 manns tóku að marki þátt í störfum hennar, flestir úr hinum virka kjarna samtakanna.

### UMRÆÐAN SÝNDI ANDSTÆÐUR

Í umræðum á ráðstefnunni skiptust menn mjög í tvö horn. Minnihluti taldi galla SHA mjög veigamikla og lagði fram gagnrýni, sem beindist að því að efla fjöldastefnuna innan SHA og koma á stefnuskrárbundinni baráttu gegn báðum risaveldunum, Bandaríkjunum og Sovétríkjunum. Meirihluti, sérstaklega meðlimir Alþýðubandalagsins, Fylkingarinnar og "Kommúnistaflokksins" töldu SHA vera í aðalatriðum í ágætu lagi, en tóku að nokkru undir gagnrýni minnihlutans.

Andstæður þessar komu glöggt í ljós varðandi skipulagsmál, útgáfu- og áróðursstarf og stefnugrundvöll samtakanna.

### SKIPULAGSMÁLIN

Marx-lenínistar meðal herstöðvaandstæðinga héldu á lofti þeirri stefnu að styrkja beri skipulag SHA, þannig að föst félagsaðild og stuðningsaðild yrði tekin upp og að hverfahópar yrðu gerðir að grunneiningum. Meirihlutinn nefndi það "ofskipulagningu" og lagði til umfangsmikla og flókna verkefnaáætlun - sem í raun eru SHA algerlega ofviða og hrein ofskipulagning!

### ÚTGÁFU- OG ÁRÓÐURSSTARF

Ákveðið var að koma á reglulegri útgáfu Dagfara, málgagns SHA, sem fréttamiðils, fræðslumiðils og umræðuvettvangs, samhliða dreifiritum. Þetta er verulegt skref framávið, ef þær verða framkvæmdar. Vert er að minnast þess, hve margar samþykktir til miðnefndar hafa fallið dauðar.

### STEFNUGRUNDVÖLLUR SHA

Meirihluti var ánægður með núverandi stefnugrundvöll SHA. Í honum eru óljós ákvæði um baráttu gegn "heimsvaldasinnuðum hernaðarbandalögum", sem túlkuð eru á margan hátt. Hins vegar var fellt að taka stefnu samtakanna til allsherjarumræðu. Sú tillaga fól í sér að samtökin skuli ræða og ákvarða hvort taka ætti upp baráttu gegn báðum heimsvaldasinnuðu risunum - Bandaríkjunum og Sovétríkjunum.

Gagnrýni á aðgerðir SHA 21.ágúst s.l. fyrir utan Sovéska sendiráðið var samþykkt, en hins vegar var skorturinn á samstarfi við 21. ágúst-nefndina varinn og sömuleiðis þokukennd kjörorð samtakanna í þeirri aðgerð.

### EINING Í AÐGERÐUM

Mikil samstaða ríkti um eitt atriði á ráðstefnunni: Einingu í aðgerðum SHA útávið. Sem kunnugt er hefur Fylkingin oft reynt að lita aðgerðir SHA með eigin geðþóttakröfum, þvert á vilja annarra herstöðvaandstæðinga. Einingu út á við samþykkti meirihluti ráðstefnumanna. Þetta merkir að eining á að vera út á við en mál- og tillögufrelsi inn á við. Þetta er ágætis framför.

### NIÐURSTAÐA

Á ráðstefnunni skýrðust markalínur á milli tveggja ólíkra viðhorfa í baráttunni. Hins vegar tókst að litlu leyti að styrkja fjöldastefnuna eða stefnu SHA. Skipulag er jafn laust í reipum og áður og verk-

Framhald bls. 3

## Burt með ógnarstefnuna!

Flugrán, mannrán, sprengjutilræði o.s.frv. - allt er þetta daglegur fréttamatur. Að baki þessum verkum standa einstaklingar og smáhópar sem kenna sig við eitthvað "rautt" og segjast berjast fyrir framsækna alþýðu víðs vegar um heim.

Fjölmiðlar ríkisvaldsins og auðstéttarinnar smjatta á atburðum þessarar tegundar. Reynt er að koma því inn hjá fólki að þarna séu nú öflin sem í verki segist vera byltingarsinnuð.

EIK(m-l) eru byltingarsinnuð kommúnísk samtök sem halda sig við þá staðreynd að þjóðfélag sósíalismans kemst ekki á eftir friðsamlegum leiðum. Baráttan fyrir því er barátta verkalýðsstéttarinnar allrar og alþýðunnar; barátta sem er háð af henni og fyrir hana.

Í þeirri baráttu kemur oft fyrir að alþýðan verður að velja milli þess að beita valdi eða vera beitt valdi.

En raunverulegum byltingaröflum verður ekki á að grípa til ógnaraðgerða og hryðjuverka. Komi slíkt fyrir í rás baráttunnar er það verk einstaklingshyggjufólks og ofurbyltingarsinna. Það sést vel á Rote Armee Fraktion (Baader-Meinhof hópnum) í Vestur-Þýskalandi. Félagar hans eru vonsvikin börn betri borgara og menntamenn sem tapa áttum í stéttabaráttunni og leika uppreisnarmenn.

EIK(m-l) fordæma ógnarverk af öllu tagi. Ógnarverk eru baráttunni ekki til framdráttar og sýna takmarkalausa fyrirlitningu á lífi og limum almennings. EIK(m-l) vara alþýðu manna við að trúa því þegar verk ógnarverkahópa og réttlát barátta t.d. Palestínuaraba, baráttan á Norður-Írlandi og Spáni eru sett í sama bás. Þá er yfirstéttin að búa sig undir að réttlæta ótakmarkaða valdbeitingu í garð allra framsækinna afla, og réttlæta vígbúnað lögreglu og hers. Í Chile eða Þýskalandi fá allir andmælendur á sig hryðjuverkastimpilinn og eru barðir niður.

Þegar er farið að örla á því að borgarablöðin á Íslandi reyni að stimpla EIK(m-l) sem ógnarverkasamtök. Vísir sagði um daginn frá viðtali sænsks blaðs við ritstjóra Verkalýðsblaðsins. Þar sagði ritstjórinn að íslensk alþýða yrði að búa sig undir að mæta nýrri heimsstyrjöld. Og Vísir spyr í framhaldi af þessu: Má búast við að sjá "maóista" með alvæpni hér á götum?!!




lönd vilja sjálfstæði
þjóðir vilja frelsi
alþýðan vill byltingu

# Grænlandsvinafélag stofnað

Fimmtudaginn 13. október s. l. boðaði hópur áhugafólks um málefni Grænlands til stofnfundar Grænlandsvinafélags. Á fundinum voru samþykkt lög og stefnuskrá félagsins, og kosin stjórn. Félagið heitir Grænlandsfélagið Inuit, og er því ætlað að efla samskipti Íslendinga og Grænlendinga á sem flestum sviðum, og styðja baráttu Grænlendinga fyrir sjálfstæði.

Þetta er mikið og brýnt verkefni. Í fyrsta lagi vegna þess að þrátt fyrir að Grænlendingar séu okkur næstu nágrannar, vitum við Íslendingar sáralítið um Grænland og Grænlendinga, og okkar litla "þekking" er að mestu fengin frá nýlenduherrunum, Dönum. Í öðru lagi eiga Grænlendingar í mikilli baráttu fyrir frelsun lands og þjóðar undan kúgun og arðráni Dana. Þessi barátta er enn ung og lítt skipulögð, og þess vegna þarf hún á öllum stuðningi að halda. Það eitt að fá sig viðurkennda sem þjóð á enn langt eftir, því til þess að afsaka nýlendustefnu sína, skilgreina Danir Grænlendinga sem hluta af dönsku þjóðinni og Grænland sem "amt" í Danmörku!

Fundurinn í Reykjavík var fjölmennur og tóku margir til máls um nauðsyn félagsins, sem



MYND: Skip danska útgerðarauðherrans Lauritsens í höfn í Narssaq. Danskir auðherrar sækja gróða til Grænlands og undiroka grænlensku þjóðina. Grænlendingar krefjast eignaréttar á landi sínu og hráefnum þess bæði lifandi og dauðum. (Mynd:ARBEJDERAVISEN)

bendir til öflugs starfs í framtíðinni. Eitt fyrsta verkefni félagsins verður að beita sér fyrir því, að Grænland fái aðild að Norðurlandaráði, og að Grænlendingar hljóti þar með viðurkenningu sem þjóð.

Stjórn Grænlandsfélagsins Inuit skipa 5 menn og 2 varamenn. Formaður er Guðmundur Þorsteinsson.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ fagnar þessari félagsstofnun sem góðum áfanga í því starfi að efla á allan hátt samstöðu með grænlenskri alþýðu í ósættanlegri baráttu hennar fyrir sjálfræði - gegn dönskum nýlendukúgurum, sem íslensk alþýða hefur sjálf fengið að kenna á. Blaðið hvetur lesendur til að ganga til liðs við hið nýja félag.

# Aukin fjárframlög til vígbúnaðar

Samkvæmt fréttastofufregnum frá Washington, munu útgjöld til hermála á næsta fjárhagsári nema 61 milljarði og 260 milljón dollurum, sem er 9 milljörðum dollara meira en síðasta fjárhagsár.

Brown, hermálaráðherra Bandaríkjanna, sagði í nýlegri yfirlýsingu að útgjöld til hermála myndu aukast um 3% á ári næstu árin. Þessi auknu útgjöld til hermála koma á sama tíma og Sovétríkin hafa stóraukið útgjöld sín á þessu sviði. Vígbúnaðarkapphlaupið milli risaveldanna eykst stöðugt, þrátt fyrir allt tal um afvopnun og slökun spennu. Risaveldin undirbúa sig fyrir nýja heimsstyrjöld með því að auka og þróa vopnabúnað sinn í sífellu.

# Krepputeikn í Póllandi

Samkvæmt samningi sem nýlega var gerður milli Póllands og Bandaríkjanna, hafa Pólverjar tekið stórlán í Bandaríkjunum. Landbúnaðarráðuneyti Bandaríkjanna tilkynnti að í samkomulaginu fælist, að Pólverjar fái lán að upphæð 150 milljónum dollara til kaupa á hveiti, maís, baðmull og öðrum landbúnaðarafurðum frá Bandaríkjunum. Bandarískir embættismenn lýstu ánægju sinni með þá staðreynd að samkomulagið gæfi Bandaríkjunum tækifæri til að kaupa landbúnaðarafurðir frá Póllandi, "á kjörum sem eru mjög hagstæð fyrir Bandaríkin". Lánin eru á mjög háum vöxtum, og gefa bandarísku einokunarauðvaldi tækifæri til að ná sterkri fótfestu á sviði landbúnaðar í Póllandi. Þessar lántökur og innflutningur á landbúnaðarafurðum sýna svo ekki verður um villst, þá kreppu sem nú ríkir í pólskum landbúnaði og pólskum efnahag yfir höfuð. Gierekklíkan er með þessu að reyna að fela kreppuna í landbúnaðinum, en afleiðingarnar munu ekki láta á sér standa: Pólland er þegar skuldum hlaðið, og gjaldeyrisvarasjóðir ríkisins eru á þrotum. Lántökurnar munu enn dýpka þá kreppu sem endurskoðunarsinnarnir hafa leitt yfir Pólland.

Albanska fréttastofan

# Mjólkur..

Frh. af forsiðu

agi afgreiðslustúlkna í brauða- og mjólkurbúðum varð hroðalegt og flestar konurnar fengu annað hvort vinnu til skamms tíma eða alls enga.

Nú mun Samsalan vera að undirbúa næstu árás á verkafólk í hennar þjónustu. Í undirbúningi er að bjóða út sem mest af útkeyrslu mjólkur, eins og brauðgerð MS gerir, en útkeyrslu mjólkurvara annast nú nokkrir tugir bílstjóra og aðstoðarmenn þeirra á eigin bílum Samsölunnar. Eftir því sem bílarnir ganga úr sér verður leitað eftir tilboðum sendibílstjóra og fyrirtækja í aksturinn. Hyggst Samsalan þannig "spara" og um leið segja upp verkamönnunum.

Bílstjórar Mjólkursamsölunnar og annað verkafólk!

MUNIÐ FORDÆMI ASB-KVENNANNA, HEFJIÐ BARÁTTUNA NÚ ÞEGAR!

ÞAÐ ER RÉTTMÆT KRAFA AÐ SAMSALAN TRYGGI ALLAR STÖÐUR BÍLSTJÓRA, BIFVÉLAVIRKJA OG AÐSTOÐARMANNA TIL FRAMBÚÐAR!

Verkalýðsfréttaritari.

# Kjaradeilunefnd

Frh.af forsiðu

og það heitir á máli auðmanna og embættismanna ríkisins og ganga í skítverk fyrir atvinnurekendur og ríkisvaldið. Í þessu tilfelli er um opinbera nefnd að ræða sem á sér stoð í lögum um kjarasamninga BSRB: "Þótt löglegt verkfall sé hafið er starfsmönnum, sem í verkfalli eru, skylt að starfa, svo að haldið verði uppi nauðsynlegri öryggisvörslu og heilsugæslu. Kjaradeilunefnd ákveður hvaða einstakir menn skuli vinna í verkfalli og hún skiptir vinnuskyldu á milli manna".

Kjaradeilunefnd skipa 3 fulltrúar BSRB, 3 skipaðir af fjármálaráðherra, 2 kosnir af Alþingi og formaðurinn er skipaður af Hæstarétti. Sem sagt: ríkisvaldið ræður yfir 6 atkvæðum af 9 alls í nefndinni!

Kjaradeilunefnd hefur í verkfallinu alltaf komið fram sem framlenging á armi ríkisvaldsins, þ.e. andstæðingi opinberra starfsmanna í verkfallinu. Hún hefur haft í frammi hótanir við félaga BSRB, ef ekki sé hlýtt umyrðalaust valdboði hennar. Til dæmis sendi hún BSRB bréf 13. október, þar sem BSRB-félögum er hótað stöðumissi, sektum eða varðhaldi, ef boðum hennar sé ekki hlýtt til fullnustu!

## HVAÐ HAFA "FULLTRÚAR" BSRB Í NEFNDINNI GERT?

Eins og fyrr segir, eiga félagar BSRB "fulltrúa" í þessari valdaklíku ríkisvaldins. Lítið hefur farið fyrir því opinberlega í hverju starf þeirra þar hefur verið fólgið. Hafa þeir t.d. lagt blessun sína yfir valdboð og hótanir kjaradeilunefndar í garð félaga BSRB?

En hvað um það: auðvitað ætti það ekki að viðgangast að BSRB hafi "fulltrúa" sitjandi í opinberri valdaklíku sem beinlínis er stofnuð til höfuðs félögum BSRB! Gegn kjaradeilunefnd á að berjast og tilgang hennar ber að afhjúpa fyrir félögum BSRB.

Félagar BSRB:

Setjum þær kröfur á oddinn að:
1. BSRB dragi þegar í stað "fulltrúa" sína út úr kjaradeilunefnd!
2. Tekin verði upp barátta gegn sjálfri tilveru kjaradeilunefndar og verkfallsnefndir BSRB fjalli alfarið um skipulag verkfalls BSRB nú og í framtíðinni!

# Fullan..

Frh.af forsiðu

á lágkúrulegan hátt, til að reyna að sanna fyrir þeim að verkfallsmenn séu samviskulausir þrjótar sem einskis svífist. "Sjúkrahúsin fá ekki mat", öskrar Moggi, "BSRB tefur lífsnauðsynlega flutninga sjúklinga úr landi". Talað er um volandi erlenda túrista við fótskör voteygra Flugleiðakónga, sem lýsa á hjartnæman hátt stórkostlegu tapi Flugleiðahringsins vegna verkfallsins og jafnframt að virðing Flugleiða úti í heimi fari mjög þverrandi vegna "sífelldra verkfalla sem eigi sér enga hliðstæðu í nokkru siðuðu landi". Hér hafa aðeins örfá dæmi verið nefnd af hatursáróðri borgarastéttarinnar með Moggann í fararbroddi gegn verkfallsmönnum BSRB.

Gott og vel. Ríkisvaldið getur bætt skjótlega úr öllu þessu með því að ganga nú þegar að kröfum BSRB og viðurkenna verkfallsrétt félagsins á næsta samningstímabili!

Almenn virkni BSRB-félaga er mikil í þessu verkfalli og við skorum á þá að sjá til þess að forysta BSRB slái ekki meira af kröfum félagsins en orðið er þegar.

+ VERJUM VERKFALLSRÉTTINN!
+ FULLAN VERKFALLSRÉTT Á SAMNINGSTÍMANUM!
+ GEGN STÉTTASAMVINNU!
+ AFHJÚPUM FORYSTULIÐ SR!

# Okkur vantar..

Frh. af forsiðu

Vbl: Hvernig hefur framkvæmdin verið á verkfallinu?

## ENGIR VERKFALLSSJÓÐIR

Starfsmaður: Almennt hefur verið mikil virkni hjá BSRB-félögum. Hvað SR snertir, þá hefur ekki borið svo mikið á virkni, enda hefur stjórn þess félags verið önnum kafin við að bera fram samningsdrög við borgaryfirvöld. Þó hefur talsverður hópur félagsmanna verið virkur og reynt að sporna við þeirri stéttasamvinnustefnu sem stjórn félagsins fylgir.

Það sem mér hefur þótt vanta, er að BSRB á enga verkfallssjóði og getur því ekki staðið í löngu verkfalli án þess að félagsmenn þurfi að herða sultarólina. Margir munu því verða tilneyddir að samþykkja lélega samninga, eingöngu vegna þess að þeir mega ekki án launa sinna vera. Þetta á sérstaklega við um lægstu launaflokkana. Ég hef líka tekið eftir því að margir félagsmenn eru óánægðir með undanþágurnar sem gefnar eru. Við vitum öll að undarþágur sem gefnar eru nú, eru fordæmi fyrir næstu verkföll opinberra starfsmanna. Þetta slævir verkfallsvopnið. Einnig er það slæmt að verkfallið skuli ekki látið bitna á atvinnurekendum, en allir vita að þeir hafa jú manna mestan þrýsting á ríkisvaldið. Ef framleiðslan hefði verið stöðvuð algerlega t.d. með algerri löndunarstöðvun vegna hafnarvarða o.fl., þá hefði Matthías fjármálaráðherra ekki setið svona rólegur heima hjá sér. Þetta sýnist mér vera eitt stærsta atriðið í þessu verkfalli, sem við eigum að læra af.

## BORGARFULLTRÚI ALÞÝÐUBANDALAGS KVITTAÐI UNDIR!

Vbl: Nú liggur það fyrir að meðal annarra sem undirrituðu svikasamning SR-forystunnar og borgaryfirvalda var sjálfur "alþýðumaðurinn" Sigurjón Pétursson, borgarfulltrúi Alþýðubandalagsins. Kom þetta ekki flatt upp á einhverja félaga í SR?

Starfsmaður: Jú, það áttu sumir erfitt með að kyngja þessu í fyrstu, en þegar fólk fór að hugsa sig um, þá komust menn að því að búast má við mótblæstri úr öllum áttum. Líka frá stéttasamvinnupáfum og auðvaldssleikjum Alþýðubandalagsins! Það er hálf broslegt að sjá Þjóðviljann reyna að lemja á íhaldsstjórninni í SR og svikasamningnum, en "gleyma" því algerlega að þeirra maður í röðum andstæðinga okkar borgarstarfsmanna er þar í fremstu víglínu!

Eina tryggingin fyrir því að félagið okkar verið raunverulegt hagsmunafélag borgarstarfsmanna er sú, að félagar þess ráði einir stefnu þess og starfsemi. Þetta þýðir að félagar verða að mæta reglulega á fundum í félaginu og taka sjálfstæðar ákvarðanir, en ekki að skilja félagið eftir í höndum erindreka borgarstjórnaríhaldsins og láta þá ráðskast með það að vild. Það verður að undirbúa vel þátttöku almennra félagsmanna í starfi félagsins. Ég vil svo minna á, að í mars á næsta ári verður kosin ný stjórn í SR. Ég gæti trúað að einhverjir hugsi sér gott til glóðarinnar þá að veita stjórninni reisupassa í "þakklætisskyni" fyrir frammistöðuna í kjarabaráttunni. Það er örugglega farið að hitna vel undir stólunum hjá þeim!

# SHA..

Frh. af bls. 2

efnaskrá jafn mikið bákn og stefnuskráin jafn túlkanleg út og suður, sem áður. EIK(m-l) skorar á baráttusinna að koma til starfa í SHA og vinna að því að efla þau sem fjöldasamtök gegn allri heimsvaldastefnu, risaveldunum báðum og hernaðarbandalögum þeirra.

# Njósnastarfsemi

Stuðningsmenn EIK(m-l) og aðrir baráttusinnar dreifðu flugriti á 4 kynningarfundum stjórnar Starfsmannafélags Reykjavíkurborgar 14. október, en þar voru nýundirritaðir svikasamningar SR-forystunnar og Reykjavíkurborgar kynntir félagsmönnum í því skyni að fá þá til að greiða þeim atkvæði í allsherjaratkvæðagreiðslu félagsins. Í flugritinu var gerð lausleg úttekt á svikasamningunum og forystu SR og fór flugritið að vonum mjög í taugarnar á forystu SR. Stjórn SR hafði ljósmyndara á sínum snærum á fundunum og reyndi hann að mynda þá sem dreifðu flugritunum og raunar alla þá sem mæltu gegn svikasamningunum. En ekki nóg með það, heldur lét stjórnin henda dreifiritafólkinu á dyr og sagði þetta vera "lokaða fundi".



Á myndinni sem fylgir hér með, sést Þórhallur Halldórsson, formaður SR, með flugrit EIK(m-l) í ræðustól á einum fundanna 14. október og varaði hann fundarmenn eindregið við að taka mark á því sem þar stæði! Ekki var sá boðskapurinn til mikils og formaðurinn fékk óspart að heyra í andstöðufólkinu gegn samningnum. Var hann orðinn ærið lúpulegur útlits, þegar fundarserían var á enda.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON

Ársáskrift: kr. 1500
Stuðningsáskrift: kr. 2500

ÓÐINSGÖTU 30
Pósthólf 5186, Reykjavík
SÍMI: 29212 - 35904

Málgagn EIK(m-l)

Gerist áskrifendur

·Áskrift greiðist á gíró 12200 - 9



# Vinátta kínversku og íslensku alþýðunnar

## Kínversk vináttusendinefnd á Íslandi

I september kom til Íslands sendinefnd frá Utanríkisvináttufélagi kínverskrar alþýðu. Formaður sendinefndarinnar var frú Ting Sjö-sóng, fulltrúi á fjórða þjóðþinginu og varaformaður Utanríkisvináttufélagsins. Með í sendinefndinni voru einnig Lí Tsú-ven, sem var varaformaður hennar, en hann er forystumaður í Shanghaideild Utanríkisvináttufélagsins, ljóðskáldið og prófessorinn Feng Shí, Repija Múhamúd, söngkona og fulltrúi á fjórða þjóðþinginu, píanóleikarinn Lí Ming-tsiang, sem hlaut fyrstu verðlaun í Enescu alþjóðlegu píanókeppninni í Rúmeníu, Líu De-hæ hljóðfæraleikari, sem leikur á hljóðfærið "pipa", stjórnarmeðlimur í Utanríkisvináttufélaginu, Fan Jú-guang og Vang Tsen-sing, starfsmaður.

Sendinefndin ferðaðist um nágrenni Reykjavíkur og átti m.a. viðræður við forseta Íslands, dr. Kristján Eldjárn, og Ólaf Jóhannesson, ráðherra.

### Í BOÐI KÍM

Sendinefndin kínverska var hérlendis í boði Kínversk-íslenska menningarfélagsins, KÍM. Hélt KÍM sendinefndinni móttökufund að Hótel Sögu. Þar ávarpaði formaður félagsins, Arnþór Helgason, sendinefndina og bauð hana velkomna. Frú Ting Sjö-sóng ávarpaði fundinn og lýsti ánægju sendinefndarinnar með heimsóknina, sem hún var viss um að myndi verða til að styrkja enn frekar vináttuböndin milli þjóða landanna beggja. Listamenn frá báðum löndum sungu og léku.

Síðar héldu svo kínversku listamennirnir tónleika í hátíðasal Menntaskólans við Hamrahlíð. Þeir sem þá tónleika sóttu voru hugfangnir af list kínversku listamannanna og þótti mikill fengur að þessum listviðburði.

Vináttuheimsóknir af þessu tagi eru ákaflega kærkomið tækifæri fyrir íslenska alþýðu að kynnast menningu kínverskrar alþýðu. Þó svo að þjóðirnar tvær séu ein sú minnsta og sú stærsta í veröldinni, þá tengjast þær sterkum böndum, því að alþýða landanna beggja á sér sameiginleg markmið og sameiginlega fjendur. Nú er sá fjandi risaveldin tvö - Bandaríkin og Sovétríkin - en þau vígbúast nú af kappi til höfuðs alþýðu heimsins.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ þakkar heimsókn sendinefndar Utanríkisvináttufélags kínversku alþýðunnar.



Í byrjun október komu til Íslands kínverskir handknattleiksmenn í boði íslensku íþróttahreyfingarinnar og skipa leikmenn þessir landslið Kína í handknattleik. Kínverska liðið lék hér tvo landsleiki við Ísland, fyrstu landsleiki Kína í handknattleik á Vesturlöndum, og einn leik að auki. Kínverjarnir töpuðu báðum fyrrnefndu leikjunum, en unnu þann þriðja. Vakti knattleikur kínverska liðsins mikla athygli áhorfenda, og þá ekki síður afar drengileg og félagaleg framkoma leikmanna innan vallar sem og utan. Kunnu íslenskir áhorfendur vel að meta hin pólitísku grundvallaratriði sem íþróttir í Alþýðulýðveldinu Kína byggjast á: "vináttan fyrst, keppnin svo", en þessi afstaða birtist ljóslega í leik þeirra hér. Íþróttaheimsóknir frá Kína eru afar mikilvægur liður í því starfi að efla vináttu og samstarf íslensku og kínversku þjóðanna. Heimsóknirnar efla tengsl íþróttafólks landanna og ekki síður almenna þekkingu íslenskrar alþýðu á Kína og sósíalískri uppbyggingu landsins.

# EFLUM KÍM!

Í nóvemberbyrjun fer vináttusendinefnd til Alþýðulýðveldisins Kína á vegum Kínversk-íslenska menningarfélagsins - KÍM. Formaður nefndarinnar er Arnþór Helgason, sem jafnframt er formaður KÍM yfirstandandi starfsár. Ferð þessi er farin til að endurgjalda heimsókn vináttusambandsins í Kína við erlend ríki til Íslands, en frá henni er stuttlega skýrt á öðrum stað í blaðinu. Heimsóknir sem þessar eru afar mikilvægar og ber að efla vináttustarfið við Kína og kynningu á landinu og sósíalískri uppbyggingu þar til muna. Vetrarstarf KÍM er nú að hefjast og hvetur Verkalýðsblaðið lesendur sína til að ganga í KÍM og taka virkan þátt í starfsemi þess. Félagið hefur aðsetur í Blindraheimilinu við Hamrahlíð í Rvík.

# Fræðslufundur EIK(m-l):

## Verkalýðsmál á dagskrá 5.nóv.

Þann 1.október síðastliðinn var haldinn fyrsti fundur í röð fræðslufunda EIK(m-l) í Prentarahúsinu við Hverfisgötu. Umræðuefnið var þjóðfrelsisbaráttan í Afríku, og var aðallega reifað ástand mála í Angólu, Azaníu (S-Afríku) og Eritreu, en komið inn á fleiri lönd í umræðum á eftir. Þátttaka var allgóð og var gerður góður rómur að máli fyrirlesara, enda hefur ekki verið um auðugan garð að gresja í fréttum borgarablaðanna um afríska þjóðfrelsisbaráttu. Það er ekki af sökum að spyrja, þegar upplýsingar koma frá fréttastofum annars hvors risaveldanna, sem vegna heimsvaldastefnu sinnar hafa andstæða hagsmuni af hvers konar þjóðfrelsisbaráttu.

Næsti fræðslufundur EIK(m-l) verður haldinn 5. nóvember í húsi Hins ísl. prentarafélags við Hverfisgötu í Reykjavík og hefst kl. 15. Umræðuefnið verður: Stéttarfélögin sem baráttutæki verkalýðs. Hvetur Verkalýðsblaðið lesendur sína til að koma og taka virkan þátt í umræðu um verkalýðsmálastefnuna á fundinum.

Þá er þeim sem áhuga hafa bent á að kynna sér stefnu samtakanna í verkalýðsmálum og öðrum baráttumálum með því að eignast stefnuskrá EIK(m-l), Baráttuleið alþýðunnar. Bókin fæst hjá Október-forlaginu, Óðinsgötu 30 í Reykjavík og öðrum bókaverslunum. Opnunartími afgreiðslu Október er auglýstur á öðrum stað í blaðinu.

## Hvar stöndum við að loknum kjarasamningum

# Kaup verkafólks lækkar - gróði burgeisa tryggður

Það verður ljósara með hverjum deginum sem líður, að síðustu kjarasamningar sem Alþýðusambandið undirritaði s.l. vor um kaup og kjör verkafólks innan sambandsins, voru afar lélegir samningar. Þrátt fyrir hástemmt lof og hrós Þjóðviljans og forystumanna ASÍ þá blasir sú staðreynd við, að samningarnir voru í raun staðfesting á skerðingum undanfarinna ára. Niðurstaðan er sú, að í besta falli getur verkafólkið reiknað með að standa í stað, en í mörgum tilfellum er um hreina afturför að ræða. Við munum í eftirfarandi grein reifa afdrif launanna í holskeflu hækkana á verði vara og þjónustu.

Með undirritun samninganna átti að sögn forsprakka Alþýðusambandsins og "Vinnuveitenda"-sambandsins að tryggja verkafólki innan ASÍ kauphækkun upp á 18 þús. kr. í fyrsta áfanga. Síðan skyldu launin hækka 1. des., 1. júní 1978 og 1. sept. 1978. Að auki eru í samningnum ákvæði um verðbætur í ýmsu formi og áttu þær að koma til framkvæmda smátt og smátt. Þessum ákvæðum um verðbætur var sérstaklega hampað af forystumönnum ASÍ sem sögðu að þau væru trygging fyrir því að launin rýrnuðu ekki vegna verðhækkana.

Tíminn sem liðinn er frá samþykkt samninganna gefur góða mynd af raunverulegu innihaldi samninganna sem forystumenn verkalýðsfélaganna lögðu hart að félagsmönnum að samþykkja í júní.

### 18 þúsundin komu aldrei til skila!

Staðreyndin er sú, að 18 þús. krónurnar rötuðu aldrei allar í launaumslög verkafólks, strax var byrjað að skerða hana með hækkunum. Sem dæmi um slíkar sneiðar sem voru teknar, var hækkunin á bensíni og dagheimilisgjöldum.

En þessar hækkanir eru ekki þær einu. Gengi ísl. krónunnar bæði seig og "var aðlagað" (eins og gengisfelling heitir núna), það kom fram í hækkunum á innfluttum nauðsynjum, t.d. var bensín hækkað aftur. Þá fylgdu í kjölfarið hækkanir á bíómiðum, dagblöðum, landbúnaðarafurðum o.fl. 1. sept. komu svo bætur sem miðaðar voru við 88 þús. kr. mánaðarlaun, samtals námu þær kr. 3.520 og þeim krónum var ætlað að mæta kauprýrnun upp á a.m.k. 6-7.000 krónur!

Og til þess að tryggja enn betur gróða burgeisanna, þá hafa verðhækkanir haldið áfram með jöfnum takti. Bensín hefur hækkað enn, gosdrykkir all ríflega(allt að 50%!) og unnar kjötvörur allt að 29%. Gengið sígur áfram, húsaleiga hækkar ásamt byggingarkostnaði osfrv.

Framundan eru svo hækkanir á raforku og fleiri liðum hjá ríkinu og bensínið mun hækka úr 93 kr. í 112 samkvæmt nýju fjárlagafrumvarpi Matta Matt. Hækkun bensíns leiðir af sér hækkun margskonar þjónustu. Síðast en ekki síst hafa farmgjöld skipafélaganna hækkað, sem svo aftur leiðir til hækkaðs vöruverðs.

„Stór áfangi án m

„Ég álít að ekki sé hægt að benda á að í allri sögu verkalýðshreyfingarinnar hafi svona stórum áfanga verið náð með ekki meiri fórnum," sagði Aðalheiður Bjarnfreðsdóttir, formaður starfs... Sóknar, um samningana um kauphækkunina.

Aðalheiður hefur verið einn helzti forvígismaður láglaunafólks og DB þótti því athyglisvert að heyra skoðun hennar á kjarasamningunum.

„Ég er þó ekki nógu ánægð og það er enginn okkar," sagði Aðalheiður. „En ég vil þakka að svo tiltölulega góður árangur náðist auknum skilningi á stöðu láglaunafólks. Almenningsálit hefur skapazt gegn því misrétti sem ríkt hefur."

Sízt ástæða til óánægju 3/8

— með verðlagsmálin, segir Björn Jónsson, forseti ASÍ

HV-Reykjavík—Að vísu gætir nokkurrar óánægju með þessa síðustu hækkun á bensíninu hjá okkur, og hækkunin á tóbaki og áfengi er umdeilanleg, en hins vegar sé ég ekki að ástæða sé til þess að hafa hörð orð um aðgerðir verðlagsyfirvalda frá samningunum til þessa tíma. Það hefur almennt verið haldið nokkuð þétt að verðlagsmálunum, og verði framhaldið ekki lakara en byrjunin, þykir mér sízt ástæða til mikillar óánægju, sagði Björn Jónsson, forseti ASÍ í viðtali ...

Hér gefur að líta yfirlýsingar frá forystumönnum verkalýðssamtakanna eftir samningana og um eftirleik þeirra. Tilburðir þeirra til að lofa samningana og verðlagsþróunina sýna hvar þeir standa.

Verðtryggingarákvæði samninganna duga ekki til að tryggja kaupmáttinn, nú þegar hafa mörg þúsund krónur tapast hjá hverjum verkamanni - og verðhækkanirnar halda áfram.

Niðurstaða þessa er sú að borgarastéttin rænir strax aftur því sem áunnist hefur í kjarabaráttunni undir núverandi forystu verkalýðssamtakanna. Gróði burgeisanna er óskertur og eykst - en kaup verkafólks rýrnar. Í hvert sinn sem minnst er á launahækkun, þá upphefst söngurinn um að "atvinnuvegirnir þoli ekki meiri álögur" osfrv.

### Barátta verkalýðsins

Í dag mætir verkalýðurinn ekki þessum árásum með gagnsókn - enda undansláttarmenn og svikarar í forystu heildarsamtakanna. Þessir menn eru ætíð reiðubúnir til þess að ræða "hliðarráðstafanir" við ríkisvaldið og "Vinnuveitenda"sambandið - en þessar umræður eru eingöngu ætlaðar til þess að fá verkafólkið til að falla frá harðri baráttu fyrir beinum og óskertum kauphækkunum, knúðum fram í krafti stéttvísi og baráttusamstöðu. Forystumennirnir eru andstæðir virkni fjöldans - þess vegna verða þeir að víkja.